*Arðrændir og kúgaðir allra landa - sameinist!*

# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

*Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-leninista)*

1.tbl. 5.árg. 9.jan.- 22.jan. 1979. Verð kr. 15o

**Kreppa í Lánasjóði námsmanna**

4 5

**Kampútsea bylting eða þjóðarmorð?**

Frummælandi fyrir hönd EIK(m-l):
**Hjálmtýr Heiðdal**
**Þorsteinn Helgason**

Andmælendur:
**Elín Pálmadóttir** blaðamaður Morgunblaðsins.

Fimmtudaginn 18.janúar kl.2o.oo að Hótel Esju 2. hæð.

420073 ÍSLAND



**Kvenna-baráttu af nýrri gerð!**

4 5

# Fiskverðsákvörðun: Fulltrúi sjómanna sveik

Nýtt fiskverð hefur verið ákveðið. Nemur hækkunin 11% á öllum tegundum nema steinbít (13%) og keilu og grálúðu (9%). Hækkunin er því töluvert minni en sjómenn og útgerðarmenn höfðu gert kröfu til og það þrátt fyrir hækkað verð á Ameríkumarkaði. Fiskverðinu má segja upp ef aðrir launþegar fá meira en 5% verðbætur á laun 1. mars n.k. Verðákvörðunin styrkir því stöðu þeirra stjórnarliða og atvinnurekenda, sem vilja aðeins greiða 5% verðbætur á laun 1. mars þó svo að hækkun vísitölunnar verði mun meiri.

KRÖFUR UM HÆRRA FISKVERÐ

Sjómenn og útgerðarmenn höfðu gert kröfur um 14-16% hækkun auk þess sem fiskverð átti að gilda til 1. apríl en ekki út maímánuð. Það vakti því nokkra furðu, að fiskverðið skyldi samþykkt með atkvæðum sjómanna, odda manns og öðrum fulltrúa fiskkaupenda gegn atkvæðum hins fulltrúans og útgerðarinnar. Með því að samþykkja þetta fiskverð hefur fulltrúi sjómanna, Ingólfur Ingólfsson brotið gegn fyrri samþykktum og þó umfram allt gegn vilja meginþorra sjómann. Hins vegar virðast forystumenn sjómannasamtákanna standa að baki honum, a.m.k. hefur Óskar Vigfússon forseti sjómannasambandsins lýst yfir fullum stuðningi við ákvörðun Ingólfs. Þessi fiskverðsákvörðun vekur upp margar spurningar. Til dæmis hvernig málum er háttað í þeim félagssamtökum sem eiga fulltrúa í yfirnefnd og hver eru heilindi forystuliðsins.

SAMTÖK SJÓMANNA

Harðorð mótmæli sjómannasambandsþings í haust gegn kjararáni ríkisvaldsins og hundsun þingsins á tilmælum ASÍ forystunnar um að framlengja fyrri samninga lofuðu góðu um að baráttustefnu ykist fylgi meðal sjómanna. Sama er að segja um ýmsar samþykktir kjaramálaráðstefnunnar svo sem að neita að skrá sig á vetrarvertíð. Atkvæði Ingólfs er beint gegn baráttustefnunni. Og hann er ekki einn um að vilja hana feiga, því fyrir liggur að fjöldi forystumanna einstakra félaga hafa

7

# Forstöðumaður tæknideildar hrakinn frá

Það hafa verið uppgangstímar á Ísafirði undanfarið. Sjómenn á skuttogurum og bátum hafa ausið aflanum á land, og starfsfólk frystihúsa og rækjuvera hefur málað gull á bónushraða. Talsvert af þessum auðæfum skila sér reglulega í bæjarsjóðinn sem skattpeningar fólks. Framkvæmdir á vegum bæjarfélagsins hafa aukist og þörf er á alls kyns hönnunarstörfum og tæknilegri vinnu.

## Frá Ísafirði

TÆKNIDEILD ÍSAFJARÐARKAUPSTAÐAR

Á tæknideild vinna aðeins 2 menn: Hallgrímur Axelsson, verkfræðingur, og Bjarni Jensson, tæknifræðingur. Hallgrímur hefur verið forstöðumaður deildarinnar í 2 1/2 ár, og sé tekið mið af fyrirrennurum hans má það teljast gott úthald.

Auk þeirra er einn af fyrrverandi byggingafulltrúum bæjarins, sem vikið var úr starfi fyrir einum 5 árum, enn á fullum launum hjá deildinni. Ekki er þó hægt að kenna þar um eintómri gleymsku; Hallgrímur lagði til á síðasta ári að maðurinn yrði tekinn af launaskrá, en sú tillaga var ekki tekin fyrir í bæjarstjórn

Á sama tíma hefur Hallgrímur knúið fast á um að fá ráðinn þriðja starfandi manninn við deildina. Bæjarráð samþykkti í sumar að auglýsa eftir tæknimanni og sóttu 3 um. Bæjarráð fjallaði eftir langa mæðu um umsóknirnar eftir að 2 umsækjendur höfðu dregið umsóknir sínar til baka og höfnuðu þá þeim þriðja án samráðs við Hallgrím. Óleyst verkefni halda svo áfram að hlaðast upp hjá tæknideild, og þetta sinnuleysi bæjaryfirvalda er eitt þeirra atriða sem fylltu mælinn hjá Hallgrími, forstöðumanni deildarinnar.

Tæknideild Ísafjarðarbæjar hannar götur holræsi og jafnvel hús fyrir bæjarfélagið og greiðir úr ýmsu tæknilegum vandamálum húsbyggjenda og framkvæmdaaðila sem leita til deildarinnar, svo nokkuð sé nefnt. Auk þess hefur forstöðumaður tæknideildar umsjón með flestum framkvæmdum kaupstaðarins.

Hallgrímur hefur barist fyrir því að bæjarfélagið sæi sjálft um blöndun og lagningu olíumalar. Eitt stærsta verkefni tæknideildar síðastliðið ár var að byggja upp vélasamstæðu til að framleiða olíumöl, en undanfarin ár hefur olíumöl verið flutt með skipum af Suðvesturlandi með ærnum tilkostnaði.



**Sagði upp til að knýja á um úrbætur - Hættu sem fyrst, var svar bæjarstjórnar**

Rætt við H. Axelson

– Þú sendir uppsagnarbréf í nóvember s.l. Hvers vegna?
Hallgr.: – Nú, samvinnan við

3

# HERAFLI BANDARÍKJANNA




**Aukning í Evrópu**

6

Áskrift greiðist á gíró nr. 12 200 - 9

VERKALÝÐS BLAÐIÐ



# Stjórnmálasamband Kína og Bandaríkjanna

Á alþjóðavettvangi efldist baráttan gegn báðum risaveldunum, Bandaríkjunum og Sovétríkjunum, á árinu 1978. Í þriðja heiminum mættu risaveldin harðari andstöðu en áður og frelsisbarátta alþýðunnar um allan heim blossaði upp mjög víða á árinu.

Sá atburður sem hvað mesta athygli vakti alþjóðlega á síðasta ári var stjórnmálasamband Bandaríkjanna og Kína. Bandaríkin neyddust til að gefa Taiwan upp á bátinn og viðurkenna Alþýðulýðveldið Kína. Þessi sigur Kína á utanríkissviðinu er sögulegur sigur. Hann gerði að engu sögulega ákvörðun Bandaríkjanna um að vinurkenna aldrei "Rauða Kína".

Kína hefur unnið marga stóra sigra í utanríkissamskiptum á undanförnum árum, en aldrei kvikað frá grundvallaratriðum þeim sem Alþýðulýðveldið hefur alla tíð haft að leiðarljósi í samskiptum ríkja.

Á síðasta ári var gerður friðarsáttmáli milli Kína og Japan og markaði hann einnig tímamót. Á þessu ári sem er að hefjast munu samskipti Kína og annara ríkja eflast og það í þá átt að styrkja einingu ríkja gegn vígbúnaði og stríðsundirbúningi risaveldanna. Það eru þeir lærdómar sem draga má af þróun utanríkisssamskipta Kína á síðasta ári. Sú þróun er öllum andheimsvaldasinnum og kommúnistum gleðiefni.

# Sovétríkin og Víetnam burt frá Kampútseu!



Vopn sem kampútseanski herinn tók af víetnömum við víglínuna við Takeo í mars 1978.

Á undanförnum mánuðum hefur Víetnam, að undirlagi og með stuðningi Sovétríkjanna undirbúið innrás í Kampútseu. Til þess að láta líta svo út að innrásin sé uppreisn gegn byltingarstjórninni í Kampútseu, hefur Vietnam komið á fót "skæruliðahreyfingu" í Kampútseu. Þessi kvislingahreyfing hefur staðið að baki mörgum árásum á leiðandi félaga í Kommúnistaflokki Kampútseu og vorið 1978 reyndi hreyfingin að skipuleggja valdarán í landinu. Valdaránið var afhjúpað og olli engum skaða.

Þessi aðferð Víetnama til að ná völdum í Kampútseu er notuð vegna þess að víetnamar hafa aftur og aftur beðið hrapalega ósigra á vígvellinum í bardögum við herlið Kampútseu. Þessi aðferð er ekki ný af nálinni. Hún er þaulhugsuð og reynd í öðrum löndum. Sovétríkin skipulögðu t.d. morðið á Daud í Afganistan og komu þar til valda sér hliðhollum mönnum. Morðin á forsetum Suður og Norður Jemen voru skipulögð til að koma til valda Sovét-tryggum mönnum. Vel heppnuð árás á leiðtoga Kampútseu myndi losa Sovétríkin við leiðtoga sem ekkert vilja með þau hafa, en mögulega opna leiðina fyrir valdatöku Sovét-trúrra manna.

Nú hefur þessi kvislingahreyfing Víetnama og víetnamskt herlið gert stórárás á Kampútseu og er markmiðið að hertaka allt landið. Í þessari árás er engu til sparað. Bæði eru notuð vopn svo sem flísasprengjur og gas og hermenn úr liði Saigonhersins, sem þjálfaðir voru í að pynta og drepa af Bandaríkjamönnum.

EIK(m-l) og Verkalýðsblaðið fordæma árás Víetnam og Sovétríkjanna á Kampútseu. Víetnam grípur til íhlutunar í löndum Indókína, svo sem Laos og Kampútseu, til þess að ná tangarhaldi á SA-Asíu.

Sá stuðningur sem Víetnam hlaut frá íslenskum andheimsvaldasinnum og kommúnistum í stríðinu gegn bandarísku heimsvaldastefnunni var allnokkur og réttur. En við skulum ekki láta það glepja okkur sýn. Staða Víetnam nú er önnur en fyrir 3-4 árum. Þá var krafan Bandaríkin burt úr Indókína. Nú verður krafan um að Sovétríkin hverfi frá Indókína og Víetnam hafi sig á brott frá Kampútseu að kveða hátt við. Alþýðan í Indókína á enn í stríði við risaveldi - í þetta sinn er risaveldið Sovétríkin.

# Opinn fundur um leshring EIK(m l)

Ákveðið hefur verið að endurskoða leshring EIK(m-l), með það fyrir augum að gera hann betri, markvissari og aðgengilegri. Því hefur verið ákveðið að boða til opins fundar, þar sem öllum gefst tækifæri til að koma með gagnrýni og ábendingar um efni og innihald leshringsins, jafnt hvað varðar einstaka fundi sem hringinn í heild. Fyrirhugað er að gefa fljótlega út leiðbeiningar fyrir þátttakendur í leshringjunum, sem byggja á gömlum leiðbeiningum, en með hliðsjón af þeirri reynslu sem fengist hefur.

Því eru allir sem koma vilja á framfæri gagnrýni á leshring EIK(m-l) hvattir til að mæta á þennan fund. Þannig getum við bætt grundvallarfræðsluna í marx-lenínismanum.

Fundurinn verður haldinn laugardaginn 20. jan. n.k að Baldursgötu 7, Reykjavík, og hefst hann kl. 10[00] f.h.

Sérstaklega eru leshringjaleiðarar og þeir sem nýlokið hafa leshring hvattir til að mæta.

**Styrkið EIK(m-l) gíró 57070 - 2**

Lesendabréf

# Einfaldanir - ef ekki beinar falsanir

Blaðinu hefur borist eftirfarandi bréf frá lesanda, "J.G":

Í VB 18.tbl. 1978 birtist allmerkileg grein í greinaflokknum "Arðrán og kreppa" 3.hluti. Í henni er gerð tilraun til að staðfæra áður birtar almennar lýsingar á einokun og kreppum (1.hluti birtist í 16.tbl). Þessi staðfærsla er því marki brennd, að um mjög miklar einfaldanir, ef ekki beinar falsanir, er að ræða. Í heild virðist mér greinin einkennast af fyrirfram ákveðinni niðurstöðu. Fremur en greiningu á ástandi og síðan álýktun út frá henni, eins og mönnum sem kenna sig við vísindalegan marxisma ber að gera.

Ég mun nú snúa mér að greininni og reyna að rökstyðja mál mitt. Og um leið koma með minn skerf í þessar umræður.

Í greininni segir réttilega, um einkenni einokunarhringja, að þeir einoki allt framleiðsluferlið. Í samræmi Við þetta rekur greinin ferlið og gætir þess að víkja ekki að neinum frávikum. Um útgerðina segir orðrétt: "Nú er því þannig háttað að útgerðin getur ekki selt fisk nema á föstu verði, sem með aðstoð ríkisvaldsisn er ákveðin af kaupendum og seljendum." Hér er alveg horft fram hjá "frjálsri" sölu fiskiskipa erlendis án þess að gera á nokkurn hátt grein fyrir stærð þess þáttar eða mikilvægi sem nauðsynlegt er til að geta ályktað sem svo að hann skipti ekki máli. En oft og iðulega heyra menn fréttir af sölu erlendis, en þær sýna að vissu marki sjálfstæði útgerða gagnvart frystihúsunum. Útgerðinni er nefnilega ekki allri stjórnað beint af vinnsluaðilunum. Heldur leita útvegsmenn sjálfstætt að sem mestum gróða sér til handa. Í mörgum tilfellum stafar sala erlendis af fullnýtingu á vinnslugetu frystihúsanna, en ekki nándar nærri alltaf, því oft er selt þó hráefnisskortur sé hér.

## RANNSÓKNINA VANTAR

Næst tekur greinin fyrir næsta stig framleiðslunnar þ.e. vinnsluna í frystihúsunum. Þar skín í gegn þekkingarleysi höfundar á því sem fer fram þar. Lýsingin er greinilega samin eftir afspurn af þessari tegund vinnustaðar, sem stór hluti fólks í landinu vinnur á. Samkvæmt greininni er eingöngu unnið í blokk í frystihúsum. Það væri verðugt verkefni fyrir greinarhöfund að kynna sér tegundir framleiðslu frystihúsanna, stærð pakkninga, hvað af þeim teljast neytendapakkningar, á hvaða markað varan fer o.s. frv. Slíka könnun hefði átt að gera áður en greinin var skrifuð. Hér er því um vítaverða einföldun að ræða, sem ekki getur leitt til góðs. Hverjum marxista ætti að vera ljóst hve mikilvægt það er að hafa rétta greiningu á þjóðfélaginu. Til slíks á ekki að kasta höndum.

Næst er vikið að sölumálum og markaðsáhrifum dóttur-fyrirtækja SH og SÍS, og dregur höf þar ýmist úr eða í að því er virðist eftir hentugleika (slíkt gera ekki nema tækifærissinnar). Í greininni segir: "Blokkarverðið er ákveðið af fyrirtækjum SH og SÍS í Bandaríkjunum. Markaðsverðið "segir" þeim að það sé ekki hægt að borga meira fyrir fiskinn. Frystihúsin á Íslandi fá ekki fjármagn til reksturs og kaupa á hráefni, útgerðin lendir einnig í fjármagnssvelti". Til þess að falla ekki í þá gryfju, að fara að geta mér til um meiningu höf., ætla ég að láta hann útskýra mál sitt sjálfan: "Gróðinn sem verður til við strit karla og kvenna í frystihúsunum um allt land, fær ekki einu sinni að renna til frystihúsanna svo að þau geti búið verkafólki tryggari vinnustaði og öruggari afkomu. Hann er hirtur í Bandaríkjunum og notaður af íslensku einokunarauðvaldi til frekari fjárfestinga og meiri gróða þar."

Eigum við samkvæmt þessu að beina baráttu okkar að því að fá SH og SÍS til að láta stærri hluta gróðans til frystihúsanna hér heima, svo að þau "búi verkafólki tryggari vinnustaði og öruggari afkomu", því það er jú markmiðið? En slíkt hlyti að skerða afkomu dóttur-fyrirtækja SH og SÍS. En þarna eru aftur ljón á veginum, því eins og segir í greininni: "Fyritæki sem sýnir lélega afkomu á ekki upp á pallborðið hjá bandarísku bankaauðvaldi, t.d. varðandi fyrirgreiðslur til nýrra fjárfestinga o.fl.". Við þyrftum því samhliða að breyta bandarísku bandaauðvaldi, eða með öðrum orðum að bíða eftir valdatöku bandarískrar alþýðu! Óneitanlega minnir þetta mig á Trotský í sínu tærasta birtingarformi.

Svo vikið sé aftur af fjármagnskorti frystihúsa og útgerðar, langar mig að benda á aðra skýringu sem til greina gæti komið. Undanfarin ár hefur verið fjárfest mjög mikið bæði hjá frystihúsunum og útgerð. Dæmin sjá menn t.d. bæði á Suðurnesjum og Vestfjörðum, þ.e.a.s. ef þeir á annað borð vilja. Til fjárfestinga er ekki notað annað en sá gróði sem verður til við verðmætaaukningu vörunnar (í þessu tilfelli fisksins) við vinnu. Ef fjárfestingin fer fram úr gróðanum, er oft unnt að fjármagna slíkt með lánsfé. Sé slík offjárfesting almenn, kemur fram lánsfjárskortur og þar sem gróðanum er fyrir fram ráðstafað, þ.e. í fjárfestingum, kemur það líka fram í rekstrarfjárskorti og fyrirtækin verða að draga saman seglin eða loka. Þessi skýring þarfnast að mínu mati frekari athugunar og því sett fram hér. Hún er, held ég, mikilvægt atriði sem fá þarf á hreint áður en unnt er að greina til fulls orsakir kreppunnar.

## AÐFERÐIR AUÐHERRA ÆTÍÐ ÞÆR SÖMU.

Að lokum langar mig að benda á eitt atriði enn í greininni, sem ég tel mjög varhugavert. Líferni frystihúsaeigenda og útgerðamanna hefur greinilega angrað höf. hennar eitthvað og hann reynir að finna skýringu á því sem sé

Framhald á bls.7



# Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum

## Fer BHM í verkfall

Launamálaráð BHM hefur nú ákveðið að krefjast endurskoðunar á kjarasamningum sínum við ríkisvaldið vegna þess að þeim hefur í raun verið rift með vísitöluþaki og skertum vísitölubótum.

Málið mun fyrst fara til sáttasemjara (í janúar) eftir tilraunir til viðræðna og síðan til Kjaradóms ef ekki næst samkomulag (í mars).

Meginkrafan er: Burt með vísitöluþakið. Þakið er nú á launum yfir u.þ.b. 270 þús. kr. á mánuði og þýðir að verðbætur að upphæð tugi þúsunda kr. falla frá í launaflokkum sem eru t.d. í nánd við 300 þús. kr á mánuði. Þakið nær til u.þ.b. 2/3 svonefndra launþega í BHM (til yfir 2000 manns).

Nú er samningsréttur BHM mjög takmarkaður eins og sést af gangi samninga og aðför "alþýðustjórnarinnar". Kjaradómur er skipaður fulltrúum auðvalds og ríkisvalds þess að meirihluta og dæmir eftir gildandi lögum – þ.á.m. lögunum um vísitöluþakið!

Brýn krafa er því sú að fá fullan verkfallsrétt og samningsrétt. Einnig verður að tryggja að greiddar séu verðbætur samkvæmt áður gerðum samningum, en ekki því sem ríkisstjórninni dettur í hug hverju sinni.

Launamálaráð BHM hefur í hyggju að hvetja til eins dags verkfalls í janúar til að ýta á málið í höndum sáttasemjara. Síðan kynnu aðrar aðgerðir að verða í mars.

Nokkrar úrtölur hafa heyrst m.a. frá dyggustu fylgismönnum stjórnarflokkanna – oftast þannig að sagt er að "BHM sé svo veikt, geti ekkert gert" o.s.frv.

En launafólk í BHM er mikilvægt ríkisvaldinu og getur bæði lamað vissa starfsemi og sýnt ákveðni með góðri samstöðu og vel heppnuðu dagsverkfalli. Barátta er aldrei vonlaus eða röng meðan afstaðan er réttmæt jafnvel þótt hópurinn sem í hlut á sé ekki mjög stór.

Fréttaritari í BHM

## Álverkamenn mótmæla

Fundur haldinn 13. des. 1978 á meðal verkamanna íslenska álfélagsins, samþykkir eftirfarandi áskorun til stjórnvalda.

1. Að kjarasamningar séu virtir og fái að standa óhaggaðir.
2. Verðbótavísitalan er eina vörn launafólks gegn kjaraskerðingu í óðaverðbólgu. Verðbótavísitöluna ber því að virða.
3. Það eru verðhækkanir, sem valda hækkun verðbótavísitölunnar. Því þarf að framfylgja verðstöðvun í raun og stórauka verðlagseftirlit.



Flutningsmenn u.þ.b. 40.

Áskorunin sendist til ríkisstjórnar og fjölmiðla.

## Félagsfundur í Sókn

# Fögur loforð, en litlar efndir

Eins og áður hefur verið greint frá á síðum Verkalýðsblaðsins, sagði Starfsmannafélagið Sókn samningum sínum lausum frá 1. des. og lýsti jafnframt yfir, að til verkfalls kæmi, ef ekki yrði um allverulegar kjarabætur að ræða. Var það mjög almenn krafa meðal félagskvenna, að launajöfnuður þyrfti að nást við gæslumenn, sem eru ófaglærðir í sömu störfum en fá greitt skv. 5. lfl. BSRB, sem er allmiklu hærri en Sóknartaxtinn.

Í Sókn hefur baráttustefnu vaxið jafnt og þétt fylgi undanfarin ár, jafnan í andstöðu við forystu félagsins. Róttækar samþykktir fundarins í nóvember voru flestar ættaðar frá þessari andstöðu, en hún túlkaði réttilega óánægju alls þorra Sóknarkvenna.

Það er enginn vafi, að það var vegna ótta við þessa víðtæku óánægju og þetta skipulagða afl baráttusinna, að viðsemjendur hjá ríki og borg brugðu skjótt við með sáttatilboð. Fól það í sér, að tekið var upp hærra vaktaálag á næturnar og um helgar, og skyldi það ná yfir allan laugardaginn, en það hefur aðeins verið frá hadegi. En grunnkaup átti ekkert að hækka, og vaktaálag á kvöldin virka daga hélst svo til óbreytt. Tilboðið var því alls ekki aðgengilegt, miðað við það mikla launamisrétti, sem Sóknarkonur búa við, og nægir að benda á, að samkvæmt því er hærra álagið lægra en lægra álagið hjá ríkisstarfsmönnum!

Eigi að síður var þetta tilboð óvenju jákvæð viðbrögð miðað við það sem Sókn á að venjast af sínum viðsemjendum, og það sýnir, að atvinnurekendur hræðast samstöðu og baráttu fólksins – það er því rétta leiðin. Rétt viðbrögð við þessu tilboði hefðu verið að hafna því og ítreka kröfur okkar og verkfallshótun.

En forysta Sóknar vill umfram allt vinnufrið – og frið fyrir ríkisstjórnina. Hún greip því tilboðinu fegins hendi og réri að því öllum árum að fá það samþykkt, til að koma í veg fyrir frekari baráttu, sem m.a. gæti komið þeim forystukonum Sóknar út úr húsi hjá forystuliði ASÍ og BSRB. – Sást m.a. til varaformanns félagsins, Esterar Jónsdóttur (einlægrar Alþýðubandalagskonu) á einum stórum vinnustað Sóknarkvenna, og lá henni hátt rómur um "æsingamenn sem yrði að stöðva" og að "tilboðið yrði að samþykkja"!

En sennilega hefir forysta Sóknar óttast að púðrið dygði ekki til að skjóta "æsingaöflum" yfir í eilífðina. Því greip Aðalheiður Bjarfreðsdóttir formaður til þess ráðs á félagsfundi um tilboðið, sem haldinn var 16. des., að veifa framan í fundarkonur loforði um inngöngu í BSRB innan skamms, ef þær bara "gæfu sér 2ja mánaða frið" – þ.e. samþykktu tilboðið!

Það hefir aldrei sést jafn skýrt, hvernig þessar falshugmyndir um inngöngu í BSRB eru nýttar í Sókn til að koma í veg fyrir baráttu. Á vinnustöðunum ala yfirmenn og forstöðufólk markvisst á þessum hugmyndum og ganga jafnvel svo langt að kaupa upp þær óánægðustu með því að búa til handa þeim verklýsingu sem fellur undir ramma BSRB. En þetta er í fyrsta sinn, sem forysta Sóknar hefir brugðið á þetta ráð.

Á fundinum var tilboðið samþykkt með 197 atkvæðum gegn 48. Atkvæðagreiðslan var skrifleg, og er það hrósvert og ætti reyndar að vera skylda þegar um meiri háttar mál er að ræða s.s. samningamál. Í miðri atkvæðagreiðslunni kom reyndar í ljós, að margar konur héldu, að þær væru að geiða atkvæði um hvort æskja ætti inngöngu í BSRB, og þótt sá misskilningur væri leiðréttur, fer það ekki á milli mála, að stór hluti þeirra, sem tilboðið samþykktu gerðu það út á loforð Aðalheiðar um BSRB-inngöngu.

Það er afarmikilvægt, að þessar konur, og aðrar Sóknarkonur, sem enn trúa, að við getum gengið í BSRB og fengið kjarabætur á fljúgandi diskum, krefji formann sinn reikningsskila í febrúarmánuði. Þá hefur hún fengið umbeðinn tveggja mánaða frest – og þá er einnig hægt að segja upp samningum og krefjast á ný launajafnréttis við gæslumenn og fleiri hliðstæða hópa. Og þá mun þurfa meir en fögur loforð til að stöðva okkur.

Fréttaritari í Sókn.

## Forstöðumaður

Framhald af forsíðu

bæjaryfirvöld var komin í óefni. Sem dæmi má nefna, að bæjarráð og bæjarstjórn tóku stórar ákvarðanir sem heyra beint undir starfssvið tæknideildar, án þess að við fengjum svo mikið sem að leggja orð í belg.

Um þetta og fleiri atriði sendi ég bæjarráði ýtarlega greinargerð með uppsagnarbréfinu. Jafnframt lýsti ég mig reiðubúinn til að ræða einstök atriði, ef bæjarstjórn óskaði þess.

– Og hver urðu svo viðbrögðin?

Hallgr.: – Ég var kallaður á lokaðan óformlegan fund í bæjarráði fáeinum dögum seinna. Á þeim fundi fengu flestir bæjarráðsmenn greinargerð mína fyrst í hendur. Menn urðu hissa og sumir dálítið rauðir og sneypulegir í framan, en engar málefnalegar umræður urðu.

Að hálfum mánuði liðnum bar svo bæjarstjóri fram þá ósk fyrir hönd meirihluta bæjarstjórnar að ég hætti störfum strax á áramótum, en samkvæmt samningi stóð uppsagnarfrestur fram til 11. maí í vor. Daginn eftir tjáði ég bæjarstjóra að til greina kæmi að verða við ósk þeirra og fór fram á fund með meirihlutanum. Sá fundur var svo haldinn ½ hálfum mánuði síðar, réttum 6 vinnudögum áður en ég átti að láta af störfum samkvæmt þeirra ósk. – Og þeir voru margir rauðir á þeim fundi líka. Enginn þeirra virtist fús til að ræða hin eiginlegu vandamál. Niðurstaða fundarins var sú að ég varð við beiðni þeirra að hætta um áramót.

Þess má geta, að forseti bæjarstjórnar óskaði þess að ég hefði ekki hátt um að ég væri að hætta störfum

– Hvað er þá framundan hjá þér?

Hallgr.:– Ég hef ráðið mig í skipsrúm á rækjubát.

– Hvernig finnst þeir að búa á Ísafirði?

Hallgr.: Ísafjarðarkaupstaður er fallegur bær í stórbrotnu umhverfi og hér hef ég kynnst mörgu góðu fólki. Hér vil ég gjarnan búa.

### BÆJARSTARFSMENN MÓTMÆLA

Starfsmenn og verkstjórar við áhaldahús bæjarsjóðs skutu á fundi þegar þeir fréttu, að Hallgrímur ætti að hætta nokkrum dögum síðar. Þeir sömdu bréf til bæjarstjórnarinnar, þar sem þeir skora á hana að endurskoða afstöðu sína. Segja þeir Hallgrím vera mjög hæfan starfsmann sem bæjarfélagið megi ekki við að missa. Einnig láta þeir vel af samstarfinu við Hallgrím og segja hann hafa sýnt dugnað og ósérhlífni í starfi. Undir þetta bréf skrifuðu allir starfsmenn áhaldahúss, 16 að tölu.

Greinarhöfundi er ekki kunnugt um viðbrögð bæjarstjórnar við þessu bréfi.

### KOM Á ÓVART

Fréttaritari náði tali af einum af verkamönnunum við áhaldahúsið, Friðriki Vilhjálmssyni að nafni.

– Þið í áhaldahúsinu eruð ekki sammála framkomu bæjarstjórnarinnar við Hallgrím Axelsson?

Friðrik: – Þetta kom okkur á óvart. Við vitum ekki hvað fer á milli Hallgríms og þeirra á skrifstofunni. En það sem snýr að okkur höfum við ekki undan neinu að kvarta.

– Finnst þér bæjarfélagið mega við því að láta Hallgrím fara frá?

Friðrik: Ég held að við séum ekkert betur settir þó við fáum einhvern annan. Við vitum hvað við höfum haft en ekki hvað kemur í staðinn.

– Helduröu að þetta mál sé það með úr sögunni?

Friðrik: Ég vona ekki, ég vona að þetta eigi eftir að jafna sig og hann verði bara áfram. Þess vegna tók ég nú þátt í þessum mótmælum.

– Heyrst hefur að sumum finnist Hallgrímur hafa verið og lítið við á skrifstofunni?

Friðrik: Ég veit ekkert um það, en mér finnst að yfirmaður tæknideildar þurfi að vara til staðar þar sem verið er að vinna að framkvæmdum og það hefur aldrei staðið á því þegar ég hef þurft á Hallgrími að halda. Mér finnst að verkfræðistörfin eigi að vinna alveg eins úti með okkur eins og á skrifstofum.

– Ertu ánægður með stjórn bæjarins?

Friðrik: Þú getur rétt ýmyndað þér það, þegar ég hef ekki kosið neinn þeirra! Ég er ekkert ánægður með þá, ég segi það bara eins og það er.

### BÆJARSTJÓRNIN

Bæjarstjórn Ísafjarðar er skipuð 9 mönnum. Meiri hlutann skipa 4 fulltrúar Sjálfstæðisflokks og 1 fulltrúi svonefnds óháðslista. Minnihlutann skipa 1 fulltrúi Alþýðubandalags, 1 frá Framsókn og 2 Kratar.

Minnihlutinn á að jafnaði ekki sæti í bæjarráði, þar sem undirbúningur málflutnings fyrir bæjarstjórnarfundi fer fram og eru því oft ansi utangátta á bæjarstjórnarfundum.

Það segir þó ekki alla söguna, því meirihlutinn lýtur í raun vilja eins manns, Guðmundar Ingólfssonar, en hann er forseti bæjarstjórnar og fulltrúi Sjálfstæðisflokksins. Guðmundur hefur góða aðstöðu til að undirbúa fundi og fylgja málum fast eftir, þar sem hann er bæjargjaldkeri og mjög laus við í því starfi. Hann hefur mótað afstöðu til flestra mála þegar þau eru lögð fyrir og aðrir fulltrúar sjá þau í fyrsta sinn. Málalok verða því oftast þannig að allir segja já og amen.

Hnífsdalur tilheyrir nú Ísafjarðarkaupstað. Guðmundur er Hnífsdælingur og finnst mörgum hann gera vel við heimabyggð sína og virðist sem gatnagerð, lóðaúthlutun og bygging leiguhúsnæðis sé óðum öll að flytjast til Hnífsdals.

### HVER VERÐA MÁLALOK

Endanleg afstaða bæjarstjórnar til uppsagnar forstöðumanns tæknideildar – að auglýsa eftir nýjum manni – var tekin einróma á lokuðum fundi 21. des. s.l. Meint ofríki Guðmundar Ingólfssonar breytir engu um að allir bæjarfulltrúar bera ábyrgð á afstöðunni. En það gildir sama um þá og aðra pólitíkusa, að á 4 ára fresti þurfa þeir nauðsynlega á atkvæðum að halda. Því er alls ekki óhugsandi að kröftug mótmæli óbreyttra borgara Ísafjarðar gætu fengið marga þeirra til að breyta afstöðu sinni.

Fréttaritari.

# STALDRAÐ VIÐ

## Nei! sagði Hreyfingin, þegar Verkalýðsblaðið bað um skýrslu stjórnar og reikninga Dagsbrúnar.

Á einum af síðustu dögum ársins 1978 gekk sendiboði Verkalýðsblaðsins inn á skrifstofu Dagsbrúnar í Reykjavík. Erindið var að sækja þangað upplýsingar um starf félagsins.

Jú, hún tók erindinu ekkert illa, skrifstofustúlkan. En hún vissi bara ekki hvar svona gögn, skýrslu stjórnar og reikninga til síðasta aðalfundar, væri að finna í skjalasafninu. Ég sagðist skyldu bíða þar til önnur skrifstofukona kæmi, en sú ku vita um.

Hurðin opnaðist og konan kom inn. Á hæla henni kom svo hann sjálfur – nei – hún sjálf, hreyfingin í eigin persónu. Og á hæla Hreyfingunni kom svo hluti ríkisvaldsins í eigin persónu, sjálfur Ólafur Ragnar. Hann var sjálfsagt kominn til að hitta Verkalýðshreyfinguna. Kannski var hann að biðja hana um hliðranir fyrir Alþýðubandalagið, kannski eitthvað annað.

Og þarna stóð ég, frá Verkalýðsblaðinu, og bað um skýrslu stjórnar og reikninga félagsins, eins og ekkert væri auðveldara.

Hyummrr– hvað ætlarðu að gera við það góði? spurði Hreyfingin, með sinni alþekktu drafandi sáttaröddu. Ég ætla bara að lesa þetta, sagði ég. Nú ertu í Dagsbrún? spurði Hreyfingin ákveðin. Ég, nei það er ég ekki. Hayrr– þá færðu ekkert hér, við lánum svona nokkuð ekki út til péturs og páls, sagði Hreyfingin sigri hrósandi. Nú það er skrítið, eru þetta ekki opinber gögn? Eru þetta kannski skrifstofuleyndarmál? Ég leit á hreyfinguna um leið og ég spurði. Nei, nei sagði Hreyfingin við lánum svona nokkuð bara ekki út. Ég ætla, – þetta eru gögn sem við ætlum að nota til að skrifa blaðagrein, ég er frá Verkalýðsblaðinu. Nei, þú færð ekkert hérna. Farið var að síga í Hreyfinguna og Alþýðubandalagið tiplaði framan við borðið.

Skrifstofustúlkan vék sér nú að mér og tók af mér smámiða, sem hún hafði látið mig hafa skömmu áður en Hreyfingin birtist. Var þetta sambrotinn smápési, fjórar síður. Inní og aftaná voru einhverjar tölur, en framaná stóð "Úrdráttur úr reikningum Verkamannafélagsins Dagsbrúnar". Þetta var það eina sem hún hafði fundið og sagði að þessu hafi verið dreift á aðalfundinum. Skrifstofustúlkan spurði nú Hreyfinguna. Má hann fá þetta? Hreyfingin leit á plaggið. Veifaði síðan út með hendinni og hvað upp dóminn. Nei, ekkert svona, Hvar náðir þú í þetta? Stúlkan benti á skjalakompu. Þarna. Ég fann að hér voru hlutir að gerast. Ég hafði haft undir höndum leyniplagg. Skýrslu sem Hreyfingin vildi ekki afhenda neinum utan félagsins, ekki einu sinni til blaða.



Það er útrætt mál, þú færð ekkert hér.

Mér fannst þetta skítt. Að fá ekki einu sinni að halda því sem ég hafði þegar fengið í hendur af skrifstofustúlkunni. Ég skil þetta þá svo, sagði ég, að Verkalýðsblaðinu sé meinað að fá hér á skrifstofu Dagsbrúnar gögn sem eru opinber, svo sem skýrslu stjórnar og reikninga. Já, það er alveg rétt, rumdi í Hreyfingunni, sem nú var að smokra sér inn á innri kontór, sýnu fínni en þann sem almenningi er boðið upp á. Enda átti augsýnilega að fara að sáttasemjast með Ólafi Ragnari.

Ég má þá segja lesendum Verkalýðsblaðsins, að Guðmundur J Guðmundsson hafi neitað blaðinu um þessi gögn Dagsbúnar, sagði ég. Já, þú getur það og þá segirðu kannski eitt orð satt, sagði Hreyfingin og hvarf nú öll inn í innri kontórinn með Alþýðubandalagið á hælana.

Ég gekk út. Reynslunni ríkari. Því er nú verr, að Verkalýðsblaðið er langt frá því að vera eitt um að fara fýluferðir á fund forystu Hreyfingarinnar. Það er langt bil á milli félagsmanna t.d. í Dagsbrún og forystunnar. Það eru margir sem sækja ekki neitt í hendur verkalýðsforystunnar, annað en nei og fýlu.

Snápur.

# «Konur bera uppi hálf

> Alþýðukonur hafa engan hag að því að styðja þessar konur úr borgarastétt. Hagsmunir þeirra eru andstæðir hagsmunum borgarakvenna rétt eins og alþýðukonur berjast gegn borgarakörlum. Kynskipting auðstéttarinnar kemur alþýðukonum ekki við

Kvennabaráttu á grundvelli stéttabaráttunnar ! Þannig hljóðar eitt þeirra vígorða sem 8. mars-hreyfingin í fyrra bar fram. En hvað merkir þetta vígorð?

Það þarf ekki djúptækan fræðilegan skilning á þjóðfélaginu til að átta sig á innihaldi þessa vígorðs. Það sem þetta vígorð segir okkur er einfaldlega það að óvinur kvennabaráttunnar er ekki karlmenn sem slíkir, heldur er kvennabaráttan liður í þeirri baráttu sem hæst ber í þjóðfélaginu, baráttu stéttanna. Eins og verkalýðurinn berst gegn kjaraárásum atvinnurekenda og ríkisvalds, gegn pólitískri kúgun, gegn einokunarstefnu og heimsvaldaásælni, þannig berjast konur á sama hátt gegn kjararýrnun, uppsögnum og hvers kyns kúgun.

En sumar konur þurfa ekki að berjast fyrir kjörum sínum. Það eru þær konur sem tilheyra stétt auðvalds og atvinnurekenda. Þeirra jafnréttisbarátta er fólgin í því að ná jöfnum rétti á við karla sína til að kúga og arðræna alla alþýðu. Þessar konur sjáum við víða, t.d. í alls kyns kvenréttindasamtökum, á Alþingi og víðar. Þessar konur hafa einnig sótt stuðning við baráttu sína í Rauðsokkahreyfinguna, sem gerir mikið úr málum eins og jöfnum rétti karla og kvenna til setu á Alþingi og til æðstu embætta.

Alþýðukonur hafa engan hag af því að styðja þessar borgarakonur. Hagsmunir þeirra eru andstæðir hagsmunum borgarakvenna, rétt eins og alþýðukonur berjast gegn borgarakörlum. Kynskipting auðstéttarinnar kemur alþýðukonum ekkert við.

NOKKUR DÆMI

Við getum tekið örfá dæmi sem sýna vel, hve mikilvægt er að konur gefi stéttabaráttunni gaum.

Verkakonur hafa undanfarin misseri ekki farið varhluta af bágbornu efnahagsástandi. Fjöldauppsagnir í fiskvinnslu hafa verið mest áberandi. En á hverjum bitna þær mest? Og á hverjum bitna þær fyrst? Mikill meirihluti starfsfólks í fiskvinnslu er konur. Atvinnurekendur líta á konur sem nokkurs konar varavinnuafl, – þeim megi



Starfsfólk Ísbjarnarins lag
vegna hótana um lokun frystihú
fundi starfsfólksins. (Mynd:Le

# Kvennabar af nýrri ge

segja upp, hvenær sem harðnar í ári og gróði þeirra af vinnu verkafólks minnkar vegna kreppu og óárans. Þetta er hagkvæmt fyrir atvinnurekendur, en hver er afleiðingin fyrir alþýðuheimilin? Flestar alþýðufjölskyldur treysta á laun tveggja og verða að gera það, ef fjölskyldan á að hafa minnstu von um að eignast þak yfir höfuðið og lifa sómasamlegu lífi. Er þá ónefnt, að margar konur eru einu fyrirvinnur heimila sinna, t.d. einstæðar mæður. Sé atvinna þeirra stopul og óörugg bitnar það á börnunum í minni og verri mat. Á heimilum einstæðra mæðra má í raun ekkert út af bera, til að algjör neyð skapist.

Dagvistarmál tengjast þessum málum mjög. Með því að takmarka mjög byggingu og starfrækslu dagvistarstofnana viðheldur ríkisvaldið og bæjarfélögin því ástandi, að margar konur komast ekki út á vinnumarkaðinn, þótt heimilunum sé brýn þörf á auknum tekjum. Með þessari "sparsemi" þjónar hið opinbera atvinnurekendum og stuðlar beint að því að viðhalda því viðhorfi að konur séu varavinnuafl, – þeirra "rétti staður" sé heimilin.




Á Íslandi ríkir launajafnrétti – í orði. En hvernig sneiðir auðvaldið hjá því? Jú, með því að beina konum í ákveðin láglaunastörf í þjóðfélaginu. Eða ætli það sé nein tilviljun, að Iðja,

# Lesendabréf

## Íslenski fáninn er fáni borgaranna

Til félaga í ritnefnd, sem skrifaði um fánanotkun í 21. tbl.:

Þú segir: "Íslenski fáninn er ekki fáni ríkjandi stéttar í stéttsþjóðfélagi, heldur fáni allrar þjóðarinnar"

Hvers konar skoðun er nú þetta, og hvar er rökstuðningurinn? Hvað er fáni "allrar þjóðarinnar"? Hvað er þjóð? Ég hélt að við lifðum í stéttskiptu þjóðfélagi hér á Íslandi, á hæsta þróunarstig auðvaldsskipulagsins – stigi einokunar og heimsvaldastefnu, þar sem verkalýður og auðvald standa í ósættanlegri mótsetningu og baráttu.

Að sjálfsögðu er íslenski fáninn ekki fáni allrar þjóðarinnar, heldur fyrst og fremst fáni ríkjandi stéttar – merki borgarastéttarinnar. Hverjir komu fram með þennan fána og hvenær? Jú, íslenskir borgarar í frelsisbaráttu gegn Dönum. Fáninn er tákn fyrir það nýja valdaafl, þá nýju stétt, sem tók við völdum hér á landi eftir að það losnaði úr greipum dönsku nýlenduherranna. Að flagga þessum fána á 1. maí alþjóðadegi verkalýðsins, ber ekki aðeins vott um fásinnu, heldur áníðslu gagnvart kúguðum verkalýð. (þar að auki tel ég söng ættjarðsöngva á 1. maí gersamlega út í hött.)

Við þá sem telja notkun rauða fánans á dögum eins og 21. ágúst og 1. des. ekki eiga við, vil ég segja þetta: Rauði fáninn er fáni hinnar alþjóðlegu verkalýðsstéttar. Kommúnistar og samtök þeirra eða flokkar standa á grundvelli hennar og hafa enga aðra hagsmuni en hennar. Rauði fáninn á því eðlilega við í öllum pólitískun aðgerðum, en annað gæti bæst við eftir ákveðnum aðstæðum.

Sem sagt : Rauði fáninn er grundvallartákn verkalýðsins og kommúnista. Honum má aldrei víkja til hliðar undir neinum kringumstæðum.

Baráttukveðjur, Lesandi.



# ...an himininn» (Maó Tsetúng)



...ði niður vinnu í ágúst s.l. ...ssins. Myndin er tekin á ...ifur)

## ...áttu ...erð!

Sókn, Framsókn og Verslunarmannafélagið státa af lægstu kauptöxtum sem fyrirfinnast? Þarna eru konur jú í miklum meirihluta. Konur eru líka í miklum meirihluta meðal barnakennara. Er þar ekki fundin skýringin á því, hvers vegna barnakennarar eru verst launaðir allra kennara?

VERKALÝÐSFÉLÖGIN

Ætla mætti að verkalýðshreyfingin í heild - og einkum þau félög sem hafa konur innan sinna vébanda að meirihluta - væru tilbúin til að taka upp mikilvægustu baráttumál kvenna og reyna að færa þau fram til sigurs. En raunin er ekki sú. Verkalýðsfélögin eru flestöll bitlaus og engin baráttutæki, hvorki fyrir konur né annað launafólk. Ástæðan er sú, að þeir sem þessum félögum stýra hafa lagt alla stéttabaráttu á hilluna. Þess í stað ástunda þeir stéttasamvinnu, - samstarf við auðvaldið og ríkisvaldið. Þetta gera þeir auðvaldinu til hags og fá sjálfir bita af borðum þess að launum. Það væri t.d. gaman að sjá lista yfir aukagreiðslur til verkalýðsforingjanna fyrir nefndasetur, fundahöld, ferðalög o.fl. Ætli það kæmi ekki í ljós að þeir eigi lítið sameiginlegt með félagsfólki sínu í launakjörum og lifnaðarháttum?

Til eru samtök sem í orði vilja setja samasem-merki á milli kvennabaráttu og stéttabaráttu. Það eru Rauðsokkar. En á slíku orðagjálfri er ekki mikið að byggja, þegar þær sjá enga aðra leið til að framfylgja þessari stefnu en samstarf við konur (og karla) úr forystu verkalýðshreyfingarinnar - stéttsvikara á borð við formenn Sóknar og Framsóknar.

Það er mikilvægt verkefni fyrir alla baráttufúsa einstaklinga - konur sem karla - í stéttarfélögunum að vinna að því að gera þau að því sem ætti að vera hlutverk þeirra: að öflugu vopni í kjarabaráttu, kvennabaráttu og allri stéttabaráttu kvenna og karla.

Langar raðir í Peking af fólki, sem vill kaupa Dagblað alþýðunnar með sameiginlegri yfirlýsingu Kína og Bandaríkjanna. Maó Tsetung lagði grundvöllinn að þeirri stefnu, sem nú hefur borið árangur - í stjórnmálatengslum Kína og Bandaríkjanna. - Sjá nánar í leiðara.

# Kína við það sama: SÓSÍALÍSK UPPBYGGING

Á tiltölulega skömmum tíma hafa margir merkir atburðir gerst í Alþýðulýðveldinu Kína. Í fjölmiðlum er nú fjallað um Kína nær daglega. Sammerkt flestum umfjöllunum er að Kína kemur á óvart. Látið er að því liggja að "valdamenn" í Kína hafi breytt algerlega um stefnu. Að verið sé að yfirgefa byltinguna og sósíalismann.

Á þriðja fullskipaða miðstjórnarfundi Kommúnistaflokks Kína voru margar ákvarðanir teknar og gert mat á baráttunni á undanförnum árum. Í stuttu máli voru niðurstöður fundarins þessar.

- Herferðin til að gagnrýna Lín Píao og "fjórmenningana" meðal alls fjöldans heppnaðist vel.
- Frá og með 1979 mun megin-þungi flokksstarfsins færast frá þessari herferð og beinast að því að gera sósíalíska efnahagskerfið í Kína nútímalegt.
- Þróun efnahagsins verður að eiga sér stað í samræmi við þau hlutlægu lögmál sem gilda fyrir sósíalíska þróun.
- "Ofur-miðstýring" er mikilvæg hindrun í þróun nútíma efnahagskerfis í landinu.
- Styrkja verður sósíalíska lýðræðið.
- Landbúnaðurinn er lykilsviðið hvað varðar "hinar fjórar nútímaþróanir"
- Kína hefur náð verulegum árangri í starfinu við að byggja upp alþjóðlega samfylkingu gegn risaveldunum tveimur, Bandaríkjunum og Sovétríkjunum á s.l. ári m.a. með heimsóknum til margra erlendra ríkja.
- Miðstjórnarfundurinn undirstrikar jafnframt að stríðshættan er enn mikil.

STÓRT SKREF ÁFRAM

Með sigrinum yfir "fjórmenningunum" og stefnu þeirra opnaðist möguleikinn fyrir stórt skref áfram. Enda þótt afhjúpunin á rangri stefnu þeirra hafi ekki náð jafn langt á öllum sviðum þá var miðstjórnarfundurinn sammála um að í aðalatriðum væri herferðinni lokið með sigri. Á grundvelli þessa ákvað fundurinn að beina höfuðþunga starfs flokksins inn á uppbyggingu sósíalíska efnahagskerfisins. Helstu atriði efnahagsstefnunnar eru að gera framleiðsluna nútímalega.

Miðstjórnarfundurinn lagði áherslu á að grundvallaratriði þau sem kæmu fram í grein Mao Tsetungs "Um hinar tíu mikilvægustu afstæður" væru áfram sá leiðarhnoði sem fara yrði eftir, en um leið var bent á að nýjar aðstæður krefðust nýrra efnahagslegra aðgerða.

"Hinar fjórar nútímaþróanir" sem lögð er áhersla á eru þróun landbúnaðar, iðnaðar, landvarna og vísinda og tækni.

DREIFING VALDS OG ÁKVARÐANATEKTAR

Ein helsta hindrun í vegi efnahagsþróunarinnar er að mati miðstjórnarfundarins, það sem kallað er ofursamþjöppun yfirvalda. Þess vegna lagði fundurinn mikla áherslu á nauðsyn þess að vald yrði fært frá hærri stofnunum til lægri, þannig að framleiðslueiningar í landbúnaði og iðnaði fengju meira ákvörðunarvald um rekstur framleiðslunnar.

MIKILVÆGI LANDBÚNAÐAR

Fundurinn mat stöðu landbúnaðarins veika. Þessi undirstaða þjóðarefnahagsins hefur orðið fyrir áföllum á undanförnum árum og nauðsynlegt er að styrkja stöðu landbúnaðarins. M.a. sem samþykkt var að gera, var að lækka verðið á framleiðslutækjum til landbúnaðar og hækka verðið á korninu. Þetta á að gera með ríkisframlagi og verður því ekki til þess að hækka verð landbúnaðarafurða til neytenda. Þannig á að minnka bilið milli verðs á landbúnaðarvörum og iðnaðarvörum.

Í næstu tbl. Verkalýðsblaðsins munum við fjalla frekar um sósíalísku uppbygginguna í Kína. Við getum samglaðst félögum okkar í Kína með það að þeir standa vel búnir til að mæta nýja árinu. Byltingin og sósíalíska uppbyggingin heldur áfram af fullu kappi. Þegar einum áfanga er náð tekur annar við.

# Kreppa í Lánasjóði námsmanna

Námsmenn fara ekki varhluta af þeirri kreppu sem nú ríður yfir íslenskt efnahagslíf. Margir minnast hinna hástemmdu loforða, sem Alþýðubandalag og Alþýðuflokkur gáfu námsmönnum. Þessir aðilar lýstu því yfir að það væri lágmarks krafa að námsmenn fengju námslán sem nægðu fyrir framfærslukostnaði á skólatíma, að skerðingarlögum Vilhjálms frá Brekku yrði hnekkt, að úthlutunarreglur þrífólsins sem réði stjórn lánasjóðsins fram til kosninga yrði breytt, þannig að tekið yrði fullt tillit til framfærslu barna og raunar framfærslu allrar fjölskyldunnar, ef svo bæri undir. Loks má nefna að þessir aðilar þykjast alltaf hafa stutt kröfur námsmanna um að fullt jafnrétti kæmist á milli verkmenntunar og bóknáms hvað varðar námslán.

Nú er kominn menntamálaráðherra úr Alþýðubandalagi, og Alþýðubandalag búið að skipa formann sjóðstjórnar. "Vinstri" flokkarnir komnir með meirihluta á þingi. Leiðin ætti því að vera greið til að standa við fyrirheitin og búa sómasamlega að námsmönnum og Lánasjóði íslenskra námsmanna. En hver er raunin,

EFNDIRNAR

Efndirnar hafa engar orðið. Jafnvel hefur verið gengið til samsvarandi kjaraárása á námsmenn og á alla alþýðu. Hægt er að telja upp langa runu þess sem lofað var, en ekki hefur verið efnt. Helstu atriðin eru:



Ragnar Arnalds

1. Vísitölulögin eru enn í gildi og Ragnar Arnalds, menntamálaráðherra hefur ekki sýnt neina tilburði í þá átt að hnekkja þeim.
2. Ragnar Arnalds hefur ekki fallist á dóm undirréttar í máli námsmanna gegn ríkisvaldinu, þar sem dómskrafan er fullt tillit til fjölskyldu námsmanna við ákvörðun upphæðar námslána. Málið heldur því áfram til Hæstaréttar.
3. Úthlutunarreglum Lánasjóðs hefur ekki verið breytt, og í haust var úthlutað skv. þeim gömlu. Formaður sjóðstjórnar hefur lagt fram drög að breytingum, og sést þar glögglega hver ætlun ríkisvaldsins er: að veita ekki auknu fé til námslána, en ganga að sumum kröfum námsmanna með því að skerða kjör þeirra á öðrum sviðum.
4. Á fjárlögum var Lánasjóði útvegað fé til að lána sem næmi 85% raunverulegrar þarfar, miðað við óbreyttar reglur. Krafa námsmanna - studd af m.a. Alþýðubandalagi - hefur verið að þetta yrði hækkað í 100%.
5. Þriðjungur þess fjár sem Lánasjóði var útvegað var í formi lántökuheimilda. Sjóðnum var sem sé leyft að taka skammtímalán (til ca 5 ára) hjá bönkum og öðrum peningastofnunum, sem sjóðurinn verður síðan sjálfur að greiða vexti af og afborganir. Þetta er sjóðnum gjörsamlega ómögulegt, nema hann skerði útlán sín og minnki alla þjónustu sína við námsmenn. Aldrei fyrr hefur svo stór hluti fjárlagaupphæðar Lánasjóðs verið í formi lántökuheimildar.

BARÁTTA NÁMSMANNA

Það hefur farið heldur lítið fyrir baráttu námsmanna gegn svikum ríkisstjórnarflokkanna. Það er skiljanlegt. Stærstu hagsmunasamtök námsmanna, Stúdentaráð Háskóla Íslands og Samband íslenskra námsmanna erlendis eru í höndum aðila, sem trúa og treysta á gjöfula lund menntamálaráðherrans og flokks hans. Þó mun vera að koma upp einhver skilningur á því að slík afstaða leiði kjarabaráttu námsmanna ekki áfram. Þessi tvö stærstu félög hafa ennþá lítt haft sig í frammi. Hins vegar hafa hörð mótmæli borist frá ýmsum aðilum, t.d. einstaka SÍNE-deildum erlendis Verkalýðsblaðinu hafa m.a. borist yfirlýsingar frá SÍNE-deildunum í Lundi Kaupmannahöfn og Osló, þar sem skerðingum er mótmælt og settar fram kröfur varðandi nýjar úthlutunarreglur. Í yfirlýsingunni frá Kaupmannahöfn segir: "Við endurskoðun á reglugerðum og lögum Lánasjóðsins hlýtur það sem endranær að vera hlutverk fulltrúa námsmanna í stjórn sjóðsins að bera fram kröfur fyrir hönd umbjóðenda sinna, sem eru í anda stefnuyfirlýsinga okkar allra, en ekki að "makka" um lausnir af því tagi sem hér að ofan var minnst á."



1.tbl. 5.árg. 9.jan.-22.jan. 1979



Lönd vilja sjálfstæði - þjóðir vilja frelsi - alþýðan vill byltingu



Íranskir bændur syrgja Hussein (sonarson Múhameðs) með táknrænni pískun með keðjum. Á meðan er lesið úr Kóraninum. Þessi minningarathöfn er nú notuð til að mótmæla kúgunum keisarans.

# Íran: Keisarinn skal falla

Því er oftlega haldið fram í fjölmiðlum að forysta fjöldahreyfingarinnar í Íran sé ofstækisfull trúarhreyfing. Jafnvel að hún stefni landinu aftur til miðalda.

KRÖFUR FÓLKSINS

Besta svarið sem við fáum við spurningunni um það hver leiði fjöldahreyfinguna í Íran eru kröfur þær sem fjöldinn flykkist um gegn keisaranum og herforingjaklíkum hans. Íranska þjóðin hefur sameinast um kröfurnar óháð pólitískum hugmyndafræðum og trúarsannfæringu.

- Keisarinn verður að segja af sér.
- SAVAK (leynilögreglu keisarans) verður að eyðileggja.
- Bandaríkjamenn verða að fara úr landi.
- Lýðréttindi verður að innleiða - setja verður alla pólitíska fanga lausa.

Yfirgnæfandi meirihluti hinna 33 milljóna Íranbúa styður þessar kröfur og berst fyrir þeim.

Baksvið þessarar breiðu einingar er 25 ára einveldi keisarans. Keisarinn og fjölskylda hans hafa skipulagt herinn og allt stjórnkerfið þannig að hún hefur alla tauma í sínum höndum. Með kerfi eftirlitsaðferða (allir njósna um alla) sér keisarinn um að enginn situr of lengi í leiðandi stöðum, engin verður of voldugur eða vinsæll áður en hann verður fjarlægður. Hver ríkisstjórnin tekur við af annari. Mútur og fríðindi, einkum í herforingjaliðinu, hefur komið í veg fyrir valdarán herforingja.

Tönvæðingaráætlun keisarans hefur leitt til þess að auka enn á efnahagslegt vald og miðstýringu. Þetta hefur rústað efnahagsgrundvöll smábænda og kaupmanna og hindrað þróun þjóðlegu borgarastéttarinnar.

Hundruð þúsunda manna hrekjast inn til borganna í von um að lifa af. SAVAK leynilögreglan, sem með réttu hefur verið líkt við Gestapo, sér um að halda röð og reglu.

Íranska alþýðan á sér and-heimsvaldsinnaðar hefðir. Auðæfi Írans og lega landsins hafa alla tíð verið aðdráttarafl fyrir nýlendu- og heimsvaldaríki. Frá upphafi þessarar aldar hefur trúarhreyfing múhameðstrúarmanna í Íran undir forystu Ayatullah Khomeini (8o ára) barist gegn nýlendustefnu og heimsvaldastefnu. 93% tilheira sjiitiska trúflokknum. Þessi trúflokkur hefur skýra þjóðlega pólitíska stefnu. Ásamt með marxistum barðist múhameðska hreyfingin gegn breska nýlenduveldinu frá 1906, síðar gegn Hitler-Þýskalandi og eftir valdarán keisarans 1953 gegn bandarísku heimsvaldastefnunni.

Þjóðfylkingin undir forystu Karím Sanjabi hefur gert bandalag við múhameðska hreyfinguna og stendur að baki sömu kröfum og hún, en er ekki eins harðskeytt í eðli sínu.

Byltingarsinnaði Tudehflokkurinn (marx-lenínistar), sem áður var öflugastur meðal íranskra stúdenta erlendis leikur sífellt stærra hlutverk í fjöldahreyfingunni í Íran. Flokkurinn hefur líka gert náið bandalag við múhameðsku hreyfinguna í baráttunni fyrir því að velta keisaranum úr stóli.

Allir pólitískir flokkar hafa verið bannaðir á Íran á valdatíma keisarans. Svo var líka um langan tíma áður. Trúflokkar og múhameðska hreyfingin urðu því einustu leyfilegu áróðurstækin sem fjöldinn réði yfir.

Venjur Sjiitiska trúarinnar banna prestunum að taka við peningum frá ríki eða valdhöfum og treysta þeir því eingöngu á stuðning fjöldans. Þetta hefur gert það ómögulegt fyrir keisarann að kaupa upp trúarleiðtoga.

Sjiitiska trúin er meira en trúarbrögð. Hún er félagsleg og pólitísk hreyfing, sem er mjög andmælt erlendu valdi og rekur harða stefnu fyrir sjálfstæði. Ennfremur er hún mjög mikið á móti aðskilnaðarstefnu, en í Íran eru margir þjóðernisminnihlutar og eru kúrdar stærstir þeirra.

# HERAFLI BANDARIKJANNA: Aukning í Evrópu

Á árinu 1978 fjölgaði hersveitum Bandaríkjanna erlendis um 11.4oo eða um ca. 2%. Alls eru þær nú 493.8oo. Um allmiklar breytingar á staðsetningu er líka að ræða. Á Kyrrahafssvæðinu er fækkun hersveita en aukning í Evrópu. Herstöðin á Barbados, lítilli eyju í Karabíska hafinu, var lögð niður.

Um það bil fjórðungur herliðs Bandaríkjanna er nú staðsett erlendis, í alls 114 löndum og á öllum höfum.

Fjöldi hermanna í sjötta flotanum, sem staðsettur er í Miðjarðarhafi, jókst um nær 1o% árið 1978 í 34.8oo.

Í Vestur Þýskalandi eru nær 1o.ooo fleiri bandarískir hermenn en 1977, þ.e. um 4% aukning, sem er tiltölulega lítil aukning, en hefur þó táknræna þýðingu og gefur ábendingu um hvert þróunin stefnir.

Í N-Þýskalandi er nú bandarísk herstöð í fyrsta sinn. Er hér um að ræða fyrstu hersveit í fyrstu skriðdrekadeild, um 38oo manns, sem er staðsett við Garlstedt nálægt Bremerhaven. Gerist eitthvað verður þessi herstöð upphafið á skjótri aukningu bandarískra hermanna í N-Þýskalandi. Á þennan hátt undirstrika Bandaríkin þá staðreynd gagnvart Sovétríkjunum að þau verða að berjast gegn Bandaríkjunum strax og þau ráðast inn í Þýskaland.

Flugherinn bandaríski hefur líka verið styrktur í V-Evrópu.

Í Kyrrahafinu er mest athyglisvert að fækkun hefur orðið í sjöunda flotanum um 1o%. Þar eru nú 25.9oo hermenn.

AUKNING Í KÓREU.

Suðurhluta Kóreu halda Bandaríkin hernumdu með um 41.ooo hermönnum, sem eru talsvert fleiri en áður. Banarískar upplýsingar útskýra þetta með því að segja að orsökin liggi í erfiðleikum við milliflutninga á hermönnum. Carter hafði nefnilega upphaflega lagt til fækkun á árinu 1978. Af ótta við það sem bandaríska ríkisstjórnin kallar "nýtt Kóreustríð" var fækkunin engin. Þrátt fyrir að Bandaríkin vilji hafa aukninguna mesta í Evrópu, þá vilja þau ekki minnka við sig í Kóreu. Hernám Bandaríkjanna á Kóreu verður því áfram hindrun fyrir friðsamlegri sameiningu landshlutanna beggja.

EVRÓPA MIÐPUNKTURINN

Aukning herstyrks Bandaríkjanna í Evrópu og sú staðreynd að Sovétríkin hafa þrjá fjórðu hluta herafla síns við landamærin að Evrópu undirstrika enn einu sinni að það er Evrópa sem er það svæði sem barist verður um. Aukningin á herafla Bandaríkjanna er svar við auknum vígbúnaði Sovétríkjanna. Þetta breytir ekki styrkleikahlutfallinu til hins betra fyrir Sovétríkin, en staðfestir samt sem áður að styrkur Sovétríkjanna eykst hraðar en Bandaríkjanna þegar öllu er á botninn hvolft.

Breytingarnar á herstyrk Bandaríkjanna beinast fyr st og fremst gegn hinu risaveldinu og sýna að ryskingar milli risaveldanna verða stöðugt meiri. Hin nýja fastastöð Bandaríkjanna í Þýskalandi mun leiða til þess að sovéskri árás verður mætt fyrr af bandarískum her. Hún er þannig alls engin vörn gegn heimsstyrjöld, heldur þvert á móti egnir til stríðs.

Heimildir: US News and World Report 25.des. Hsinhua 1o.des.
-Klassekampen-



Malcolm Caldwell á blaðamannafundi í Osló 17. apríl s.l. á þriggja ára afmæli frelsunar Kampútseu. (Mynd:Klassekampen)

# Malcolm Caldwell myrtur í Phnom Penh

Breski Asíu-sérfræðingurinn Malcolm Caldwell var skotinn til bana í höfuðborg Kamputseu, Phnom Penh, nú fyrir jólin.

Caldwell bjó í einu gistirýma kamputséönsku ríkisstjórnarinnar ásamt tveim bandarískum blaðamönnum.

Þrír menn vopnaðir skammbyssum og vélbyssum réðust á bústaðinn. Öryggisvörður var drepinn og morðingjarnir skutu Caldwell til bana.

Samkvæmt NTB/Reuter fréttum voru formælendur kamputséönsku stjórnarinnar ekki í vafa um að árásin væri "af pólitískum toga og hún væri gerð til þess að koma illu orði á landið erlendis".

Bandarísku blaðamennirnir tveir sem bjuggu í sama bústað voru Richard Dudman frá St. Louis Post Dispatch og Elizabeth Becker frá Washington Post. Báðir þessir blaðamenn áttu samræður við Pol Pot forsætisráðherra þann 22. des.

Hver var Malcom Cadwell?

Hver var þessi maður sem féll fyrir kúlum svikara í Phnom Penh? Hverjir eru það sem hafa hag af því að þagga niður í manni eins og Caldwell?

Caldwell var heiðarlegur lýðræðissinni. Hann hafði um langan tíma helgað sig rannsóknum á málefnum Asíu-landa. Hann var þaulkunnugur öllum löndum SA-Asíu, hafði dvalið í þeim öllum, og var gestur stjórnarinnar í Kampútseu þegar hann var drepinn. Caldwell hafði orð á sér fyrir að vera traustur og ábyrgur vísindamaður á alþjóðlegum mælikvarða.

1973 gaf hann út bókina "Cambodia in South East Asian War" (Kampútsea í SA-Asíu stríðinu) og sl. vor lauk hann við bók um sögu Malasíu. Um tíma var hann formaður í and-atóm-hreyfingunni í Englandi (gegn kjarnorkusprengjum). Caldwell var háskólakennari að starfi.

Hvers vegna var Caldwell myrtur?

Caldwell hefur alltaf stutt og varið þjóðfrelsisöflin í Kampútseu, gegn lygaáróðri bæði CIA og KGB. Þegar kvislingavinirnir héldu "Kampútseu-réttarhöldin" í Osló s.l. vor var Caldwell ekki boðið að bera vitni. Hann sendi "réttarhaldinu" opið bréf og var þátttakandi í gagnréttarhaldi, sem vináttutengsl Noregs og Kampútseu stóðu fyrir. Hann var mikill vinur alþýðunnar í Kampútseu. Þess vegna var hann myrtur, af andstæðingum

## Lesendabréf

# Alþjóðasöngur EIK-ara

Tveir textar þekkjast af Nallanum, gamli textinn (Fram þjáðir menn...) og sá nýi (Til sigurs...). Félagar EIK hafa tekið upp þann síðarnefnda, en engir aðrir. Látum vera þótt EIKarar kyrji sinn eigin texta á sínum eigin lokuðu fundum. Það sem verra er að nýi textinn skuli neyddur upp á samfylkingar og aðgerðir. Það varð t.d. einum ósamtakabundnum að orði á Austurvelli 1. des., að þegar Nallinn var sunginn þar hefði mátt þekkja EIKarana úr. Þeir hafi verið einir um að syngja, vegna þess að aðrir sem þarna mættu hefðu aðeins kunnað gamla textann. Þetta er alvarlegt mál. Ég tel það megnustu einangrunarstefnu af ykkur að vera með einkatexta á Nallanum, og legg því til, að þið hættið að nota hann og takið aftur upp þann gamla, sem íslenskt alþýðufólk þekkir og kann. Það skiptir engu máli, hvor textinn er betur ortur eða pólitískt réttari eða nákvæmari. Spurningin snýst fyrst og fremst um það hvor textinn höfðar betur til þeirra sem þið viljið ná til með söng ykkar. Þetta gildir hins vegar fyrst og fremst um fjöldasöng. Allt öðru máli gegnir um sönghópa o.þ.h. - þar er hægt að leyfa sér að koma með nýja texta, nýjar útsetningar o.s.frv.

Baldvin

## Lesendabréf

# Málfarið

Samherjar í ritstjórn Verkalýðsblaðsins.

Þeir sem lesa Vbl. að staðaldri sakna oft þess að fá ekki góðan skammt af alþýðlegri fyndni og hressum húmor í bland við pólitíkina. Því miður virðast skrifarar blaðsins ekki vera á sama máli ef burtséð er frá einkennilegum gelgjuskeiðshúmor í stíl við stjörnuspár og annað slíkt. En ekki ætla ég að fjölyrða um það að sinni.

Erindið var nefnilega það að æði oft birtist einskonar "óvart fyndni" í málfari blaðsins sem ekki er til þess að auka álit alþýðunnar á þeim sem blaðið skrifa. Ritstjórum Verkalýðsblaðsins virðist t.d. ekki enn vera ljóst að það er mjög takmarkaður hluti íslenskrar alþýðu sem sveiflar um sig uppáhalds orðatiltæki Vbl. "að slá einhverju föstu", eða nánar til tekið er það sérstaklega sá hluti alþýðunnar sem les eða hefur lesið Klassekampen eða önnur skandinavísk kommablöð sem svona talar. "Óvart húmorinn"birtist t.d. þegar miðstjórn "slær föstu að Alþýðubandalagið er kaupránsflokkur". Íslensk alþýða sannreynir, ályktar, jafnvel lýsir yfir þessari staðreynd, en að"slá því föstu" er vindhögg í íslenskri málvitund!
Bætið málfarið!!!
Bætið stílinn!!!!

ps. Ath. að karlmannsnafnið Örn (í þessu tilfelli Örn Ólafsson) er í eignarfalli Arnars ekki Örns.

Skrifað í austurvegi síðast dag ársins fyrir flokksstofnun. Skaði

(Aths. Ritstj: Rétt eignarfall mun nú vera Arnar ekki Arnars.)

Framhald á bls.2

í samræmi við gróðasvelti fyrir fyrirtækja þeirra: "Það er hins vegar önnur reiknisaðferð notuð þegar frystihúsaeigendum og útgerðarmönnum er borgað út, svo að þeir geti haldið áfram að lifa í lúxus og vellystingum".

Ekki finnst mér það góðs viti að litið skuli á frystihúsaeigendur og útgerðarmenn sem háttlaunaða verkamenn SH og SÍS. Með slíkan bakgrunn náum við aldrei langt. Frystihúsaeigendur og útgerðarmenn nota sömu aðferð og aðrir kapitalistar til, að afla sér tekna. Þeir taka þær af þeim gróða sem myndast í fyrirtækjum þeirra við vinnu verkafólksins.

## Safnanir

Sölu- og áskriftarherferð Verkalýðsblaðsins er lokið. Af óviðráðanlegum orsökum er ekki unnt að greina frá niðurstöðum hennar fyrr en í næsta blaði.

Ritnefnd.






# Stéttabarátta eða stéttafriður

Að lítt athuguðu máli lætur orðið stéttafriður mjög ljúft í eyrum og af andstæðu þess - orðinu stéttabaráttu - stafar kaldur gustur. En lítum ögn betur á málið.

Sumir misskilja orðið stéttabarátta og halda að það þýði barátta milli starfsstétta, eins og milli sjómanna og landverkafólks eða milli trésmiða og bakara. Sé orðið skilið þannig, er eðlilegt, að menn vilji stéttafrið. En þegar nýju stjórnarherrarnir tala um stéttarfrið, þá eiga þeir við allt annað.

Með orðinu stéttabarátta er átt við baráttu milli tveggja höfuðstétta þjóðfélagsins sem við lifum í, milli launavinnufólks og auðherra, milli verkalýðs og auðvalds. Stéttabaráttan stendur milli þeirra tiltölulega fáu sem völdin hafa í auðvaldsþjóðfélagi og þeirra mörgu, sem hafa það hlutverk að vinna framleiðslu og þjónustu störf á þann hátt sem yfirvöldin (auðstéttin) fyrirskipar og fyrir þau laun, sem þeir komast upp með að borga. Þetta er barátta milli kúgara og undirokaðra, milli arðræningja og arðrændra. Milli þeirra getur aldrei ríkt neinn varanlegur friður.

Íslenska þjóðfélagið skiptist æ meir upp í 2 meginfjandmannaflokka: - þá sem bara stjórna og ráðsmennskast og þá, sem bara þræla og framkvæma fyrirskipanir. Valdastéttin getur í krafti lögfests forræðis síns lagað ríkið og þjóðfélagið að sínum þörfum og gengur þá oftast þvert á hag meirihlutans, vinnandi fólks. Vilji vinnufólkið fá fram breytingar sér til hagsbóta, verður það að beita samtökum sínum og knýja valdastettina til undanhalds. Kosningarétturinn dugir skammt, ef valið stendur aðeins um flokka og menn, sem eru valdastéttinni auðsveipir og gjarnan úr röðum hennar.

Þessi móthverfa milli valds og vinnu, eða öllu heldur milli auðmagns og vinnu er aðeins hægt að leysa þannig, að verkafólk og annað vinnandi fólk byggi upp öflug félög og öflugan stefnufastan flokk. Í þeim flokki er reynslunni af aldalangri baráttu alþýðu um Heim allan safnað saman og út frá henni mörkuð stefna út frá íslenskum aðstæðum. Þannig verður hægt að hnekkja veldi hinna rotnandi afla og byggja upp ríki, sem er sniðið fyrir vinnandi fólk, líkt og gert hefur verið í Kína og víðar.

Þó svo að öll alþýðan taki þátt í þessari baráttu, þá hefur verkafólk mest að vinna og minnstu að tapa Það myndar hið jákvæða skaut gegn hinu neikvæða skauti, er hin rotnandi valdastéttog þá einkum harðasti kjarni hennar, einokunarauðvaldið myndar. Spennan milli þessara skauta fer stöðugt vaxandi og neistaflugið eykst.

Vinnandi fólk verður að heyja stéttabaráttu. Gróðaöflin hafa undirtökin og þegar stéttabaráttan er í lágmarki ganga þau á lagið. Núverandi ríkisstjórnarflokkar reyna að koma á stéttafrið og fá alþýðuna til að kyssa á vönd kúgaranna. Stéttafriður var eitt sinn kjörorð þýsku nasistanna, (stétt með stétt) básúnuðu þeir og myrtu alla, sem voguðu sér að opna munninn. Þetta minnir okkur á, hve dýrmæt borgaralegu lýðréttindin eru og hve mikilvægt er að verja þau.

Það krefst baráttu að halda þeim réttindum, sem fólk hefur áunnið sér. Það krefst enn meiri baráttu, auk náms og fræðslu, að leggja grundvöll að réttlátu þjóðfélagskerfi. Hörð og markviss stéttabarátta, sem fjöldinn tekur fullan þátt í, - það er merki um að við séum á réttri leið. Það er vegna stéttabaráttu að þjóðfélagið þróast áleiðis og þannig verður það um langt skeið, ekkert síður eftir að við byrjum uppbyggingu sósíalísks þjóðfélags.

# Krossgáta nr. 2 rétt lausn

| | | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1 B | 25 A | 26 N | 27 N | A | | 2 S | 28 N | A | 29 R | 30 L |
| 3 A | S | Í | A | | 4 V | | 5 Æ | Ð | E | Y |
| 6 U | S | A | | 7 M | E | 31 S | | 8 E | I | K |
| 9 L | A | | 10 S | E | R | K | 32 S | | 11 M | L |
| A | | 12 B | A | N | K | A | N | 33 A | | A |
| | 13 T | A | L | N | A | R | U | N | U | |
| 34 V | | 14 K | L | I | F | A | Ð | I | | 35 R |
| 15 I | 36 N | | 16 A | N | Ó | Ð | A | | 17 B | Ú |
| 18 N | Ó | 37 A | | 19 A | L | I | | 20 S | Í | S |
| 21 N | A | U | M | | K | | 22 M | Æ | L | T |
| 23 A | R | K | I | R | | 24 S | I | G | L | A |

Réttar lausnir á 2. krossgátu Verkalýðsblaðsins í 21. tbl. voru heldur fáar. Verðlaun voru ársáskrift að Rauðliðanum, fræðilegu og menningarlegu tímariti EIK (m-l). Verðlaunin hlýtur Sigurður Skúlason, Hörðalandi 18, Reykjavík. Rétt lausn krossgátunnar fylgir hér með.

# Myndagáta í 22. tbl. 78 rétt lausn




# Fiskverðsákvörðun

Framhald af forsíðu

séð svo um, að ekkert markvisst starf var unnið að því að fá sjómenn til að bíða með að skrá sig þrátt fyrir samþykkt ráðstefnunnar.

ÚTGERÐARMENN

Margir sjómenn, sem ekki vildu skrá sig fyrr en fiskverð lægi fyrir fengu að kynnast því að ekki höfðu allir útgerðarmenn jafn miklar áhyggjur af lágu fiskverði og formaður þeirra Kristján Ragnarsson. Fjöldi útgerðarfélaga hafði leynt og ljóst í hótunum við sjómenn. Það átti að gera út hvort sem gróði yrði eða ekki. Margir útgerðarmenn gáfu undirmönnum tvo kosti: að taka poka sinn og hypja sig eða skrá sig strax í skipsrúm. Aðrir létu þá undirmenn sem höfðu skráð sig á vetrarvertíð "ganga fyrir" með launagreiðslur. Gegn slíkum kúgunaraðgerðum verða sjómenn að berjast og eina vopnið sem á bítur er órjúfandi samstaða.

FISKKAUPENDUR

Fiskkaupendum tókst að tryggja sér lágt fiskverð um leið og þeir undirstrika með mótatkvæði sínu að þeir ætli ekki að greiða hækkunina sjálfir. Verðbólgan og gengissigið eiga að rýra hana og gera að engu.

Með þessari fiskverðsákvörðun ætti öllum sjómönnum að vera ljóst að núverandi ríkisstjórn fetar dyggilega í fótspor Matthíasar Bjarnasonar og fyrrverandi stjórnar í að rýra kjör sjómanna. Og nú sem fyrr á ríkisvaldið dygga þjóna í röðum forystumanna sjómanna.

# Ísraelskt herlið í Íran

Ísrael fær mest alla olíu sem síonistarnir nota í hernaðinum frá Íran. Ísrael hefur lengi óttast þá þróun sem nú á sér stað í Íran. Íran er eina landið í Mið-austurlöndum sem viðurkennt hefur Ísrael og alltaf hefur stutt síonistaríkið. Samkvæmt upplýsingum Norska ríkisútvarpsins eru ísraelskar hersveitir komnar til Íran og hafa þegar tekið þátt í bardögum. Sveitir þessar eru s.k. sérsveitir, þ.e. þjálfaðar til að berjast í návígi í borgum og á götum. Ísraelskir sérfræðingar eru líka ráðgjafar í her keisarans.

VERKALÝÐS BLAÐIÐ
Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)

Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á
gíró 12200-9

ÁBM: ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 3000
1/2 árs áskrift: kr. 1750
Til útlanda: kr. 5500
Stuðningsáskrift: kr. 5000
ÓÐINSGÖTU 30 Pósthólf 5186,
Reykjavík, sími: 29212

Landsbókasafnið
v/ Hverfisgötu
1o1 Reykjavík

# «Tvöfalt vinnuálag og gamlir fordómar»

## Úr dreifiriti 8.mars hreyfingarinnar

Blaðamaður Verkalýðsblaðsins frétti af því að fólk vantaði til að dreifa dreifiriti 8. mars-hreyfingarinnar á Þorláksmessu sl. Blaðamaðurinn brást að sjálfsögðu vel við og stóð við dreifingu í nístandi kulda í eina klukkustund. Það var skemmtileg reynsla. Dreifirit hreyfingarinnar er með allra bestu dreifiritum sem viðkomandi blaðamaður telur sig hafa séð frá framsæknum hreyfingum. Honum kom einnig í hug að dreifirit þetta gæti verið góð fyrirmynd blaðamönnum Verkalýðsblaðsins og öllum sem í það skrifa Einnig gæti dreifirit þetta orðið lýsandi fordæmi fyrir þá sem síðar fá þau verkefni að lemja saman dreifirit. Framsetning og allt orðalag þessa dreifirits sýnir vel, hvernig á að skrifa til að höfða til venjulegs fólks, hins almenna vegfaranda. Við birtum hér meginefni dreifiritsins.




ERU KONUR KÚGAÐAR ?

" Við vinnum í B.Ú.R., af greiðum í Hagkaup, erum dagmömmur í Breiðholti, erum tveir þriðju hlutar allra barnakennara, seljum súkkulaði og tóbak í sjoppunni á horninu, stundum fjósið og heimilisverkin jöfnum höndum í sveitinni. Við erum menntaðar eða ófaglærðar. Það sem við eigum sameiginlegt er að við erum alþýðukonur.

LÍTILL HLUTI KVENNA ER Í FULLRI ATVINNU

Þegar harðnar í ári hjá atvinnurekendum er okkur fyrst sagt upp. Við erum sendar heim kauplaust þegar hráefnaskortur er í frystihúsinu. Við fáum ekki vinnu ef við erum óléttar eða farnar að eldast. Tvöfalt vinnuálag og gamlir fordómar gera okkur erfitt um vik að komast á fundi og taka þátt í félagslífi.

91 AF HVERJUM 100 BÖRNUM FÁ EKKI BARNAHEIMILISPLÁSS

Ef þú ert gift á barnið þitt hér um bil enga möguleika á dagheimilisplássi. Það þýðir ekki einu sinni að sækja um. Ef þú ert einstæð og ferð að búa með manni missir þú dagheimilisplássið. Ef þú ert heppin getur þú fengið dagmömmu, en það kostar 47 þúsund krónur á mánuði.

VIÐ RÁÐUM EKKI SJÁLFAR YFIR LÍKAMA OKKAR

Líkami okkar er notaður eins og vara í auglýsingaskyni, allt frá auglýsingum um röra-fittings til tannkrems.

Í hverjum sjoppuglugga sjáum við grófustu misnotkun á kvenlíkamanum – klámblöðin.

"Sérfræðingar" ákveða fyrir okkur hvort við getum fengið fóstureyðingu."

HVER ER ÞAÐ SEM KÚGAR OKKUR

- Hver er það sem ræður því að það er ekki næg atvinna fyrir konur?
- Hver er það sem ekki byggir fleiri dagheimili?
- Hver græðir á klámblöðunum?
- Hver skiptir sér ekki af því að klámblöð eru seld?
- Hverjir hafa hag af því að halda konum niðri?

Atvinnurekendur eru fegnir að geta losnað við að greiða okkur laun þegar minna er að gera. Þannig erum við gerðar að varavinnuafli.

Hið opinbera gæti fjölgað dagheimilum, en gerir það ekki. Fyrir hverjar kosningar lofa flokkarnir að bæta úr skortinum en gera það ekki.

Klámblaðaútgefendur moka inn stórfé. Yfirvöldin lyfta ekki litlafingri gegn þessu. Þau vilja nefnilega gjarnan viðhalda þeim fordómum, sem klámblöðin eru full af.

Því er haldið fram að við séum "ótryggt vinnuafl", og þess vegna sé ekki hægt að greiða okkur sömu laun og karlmönnum. Það er út í bláinn að nota það gegn okkur að við ölum börn.

Það eru atvinnurekendur og ríkisvald sem hafa hag af því að halda okkur niðri. Þannig er það á Íslandi. Þannig er það í flest öllum löndum heims, þótt í mismiklum mæli sé."

HVAÐ ER TIL RÁÐA ?

"ALLT þetta finnst þér óréttlátt: En þú veist kannski ekki hvernig þú átt að mótmæla. Þú heldur kannski að það hljóti að vera eitthvað að þér sjálfri. Við konur erum aldar upp við þann hugsunarhátt. Þar að auki eigum við alls ekki að skipta okkur af pólitík. Þessum þvættingi höfnum við og berjumst gegn. Slík rök eru ekkert annað en liður í sjálfri kvennakúguninni.

AÐEINS BARÁTTA OKKAR SJÁLFRA GETUR GERT OKKUR FRJÁLSAR!

Hugsaðu þér bara ef meirihluti kvenna í Reykjavík þeysti inn á Alþingi til þess að krefjast þess að öll börn ættu kost á dagheimilum. Eða færi í mótmælagöngu niður Laugaveginn til að krefjast fullrar atvinnu og gegn fjöldauppsögnum. Eða fylkti liði í gröfugöngu 8. mars undir kjörorðinu GEGN ALLRI KVENNAKÚGUN.

Ef samstaða væri orðin svo mikil þá værum við orðnar afl, sem stjórnvöld neyddust til að taka mark á. Með því að standa saman í baráttunni getum við lært hver af annarri, staðið sterkari að vígi gegn allri sundrungu og barist hlið við hlið – gegn óréttlætinu."

# 8.mars hreyfingin Til starfa á ný!



Þann 22. nóv. sl. hóf 8.mars-hreyfingin undirbúning sinn að því að gera 8. mars jafn veglegan baráttudag kvenna og í fyrra. Liðsfundur var svo haldinn 28. des. sl. Bráðabirgðastjórn hreyfingarinnar var kosin á upphafsfundinum í haust, en á næsta liðsfundi, sem haldinn verður 2o.jan. nk. er ætlunin að kjósa nýja stjórn. Liðsfundur sá verður haldinn að Hótel Esju og hefst kl.14.oo

Gert hefur verið dreifirit sem prentað var í 10 þús. eintökum, og verður því dreift á vinnustöðum og víðar. Á Þorláksmessu sl. var dreifingarherferð í miðborg Reykjavíkur og hlaut dreifiritið hinar bestu undirtektir.

Þá hefur hreyfingin gefið út bækling um kvennabaráttuna og helstu vígorð hennar. Bæklingurinn kostar kr. 5oo.- og er seldur hjá liðsmönnum hreyfingarinnar. Sama gildir um merki hreyfingarinnar, sem kostar kr. 200.- stykkið.

Verkalýðsblaðið hvetur lesendur sína til að verða sér úti um útgáfuefni 8.mars-hreyfingarinnar og mæta á liðsfundina. Ætlunin er að meginstarf hreyfingarinnar fari fram í hópum, þar sem hinir ýmsu þættir kvennabaráttunnar verða teknir fyrir. Hreyfingin er nú sem óðast að semja sér stefnugrundvöll. Þótt hann sé ekki frágenginn, er óhætt að fullyrða, að megininntak hans verður svipað og í fyrra, – þ.e. barátta fyrir hagsmunamálum alþýðukvenna á grundvelli þeirrar baráttu sem stöðugt fer fram milli auðvaldsins í þessu landi og verkafólks og annarar vinnandi alþýðu. Það er mikilvægt að styðja og efla sem mest þessa viðleitni til að færa kvennabaráttuna frá kvenrembu og skipulagsleysi til baráttu á grundvelli stéttabaráttu. Starf 8. mars-hreyfingarinnar í fyrra markaði þáttaskil, og nú er allt undir því komið að framhaldið verði jafn gott.

Hægt er að hafa samband við hreyfinguna með því að hringja í Kristjönu í síma 7 34 65 eða Ástu í síma 3 24 94.

# Konur til sölu

Umræða um klám í dagblöðunum fyrir jól missti nokkuð marks. Mest var rætt um skaðleg áhrif kynlífsmynda eða mynda af nöktu fólki og kynfærum þess á ungt fólk. Jafnvel er rætt um skaðleg áhrif þessa á kynlíf fólks o.fl. Sannleikskorn kann að vera í sumu af þessu – en þetta eru veigalítil rök.

Meginatriðið er þetta: Kynlífsmyndir, lesmál o.fl. þess háttar er gróðavegur sem byggist á sölu kynlífs eins og vöru og á niðurlægingu konunnar. Líkami kvenna (áreiðanlega í 9o% tilvika) er seldur – hann er notaður ásamt tilfinningalífi fólks til auðveldrar gróðamyndunnar. Og allt er þetta réttlætt með glamri eins og að "þörf er á opinskáu kynlífi í firringu nútímans".

Talsmennirnir eru annars vegar "frjálslyndir" yfirstéttarmenn sem sjálfir bera ábyrgð á firringunni og þrælkuninni sem hleypir lífi í klámmarkaðinn og sumir þeirra græða jafnvel beint á kláminu. Hins vegar eru það "frjálslyndir"-vinstri menn sem segja lungann úr klámiðnaðinum nauðsynlegan fyrir þá sem vilja og andstæðu gamaldags fordóma.

Báðir þessir hópar hafa jafn rangt fyrir sér og eru reyndar jafn afturhaldssamir og þeir sem vilja pukrast með kynlíf, jafnvel svo að segja kynfræðslu vera af hinu illa.

Vinstri mennirnir eru mestu hræsnararnir. Þeir tala um jafnrétti en selja svo konur og lágkúru alls konar t.d. í bókabúð Máls og menningar eins og yddara eða Andrés Önd í gróðaskyni. Jafnréttið á þeim bænum felst í að selja karlmannsskrokka til jafns við hitt kynið.

Alþýða manna hvorki pukrast með kynlíf né er andsnúið fræðslu um það. En fáar eða engar alþýðukonur sætta sig við niðurlæginguna og þá kven-fjandsamlegu stefnu sem klámiðnaðurinn hvílir á. Kvenleg eða karlmannleg fegurð eða hvað fólki kann nú að finnast birtingarhæft er henni allsendis óviðkomandi. Æ fleiri karlar brjótast út úr viðjum rangrar afstöðu til kvenna úr eigin stétt, sem þjóðfélagið hefur haldið að þeim. Okkur ber að stuðla að baráttu gegn því gróðabraski sem klámið er á grundvelli framsækinnar kvenna- og jafnréttisbaráttu.

Lesandi

# STYRKIÐ EIK (m-l)! GÍRÓ 57070-2

Umsvif Einingasamtaka kommúnista (m-l) aukast nú jafnt og þétt. Baráttuaðgerðir sem samtökin standa fyrir, fundir, dreifirit, blaðaútgáfa og fjárstuðningur við samtök eða t.d. verkfallsaðgerðir er fjárfrekur.

Helsta tekjulind EIK(m-l) eru félagagjöld auk safnanna ýmis konar og sölu útgáfuefnis. Styrkur fjárhagur er að sjálfsögðu ein forsendan fyrir virkni kommúnistanna og aukinni baráttu gegn hvers kyns ásælni á hendur verkafólki og annarri alþýðu.

BARÁTTUSJÓÐUR EIK(m-l) getur ávallt tekið við framlögum frá vildarmönnum samtakanna. Slíkur stuðningur er mikils virði og eflaust margir sem telja sig fremur geta lagt hönd á plóginn á þann hátt en t.d. með því að taka þátt í beinu starfi.

EIK(m-l) eru ung og lífleg stjórnmálasamtök,sem margir eygja í nýjan og raunverulegan verkalýðsflokk.

Lesandi góður , láttu okkur njóta trausts þíns. Sendu fjárframlag á gíróreikning nr.57o7o-2 eða umumsögn um starf og stefnu EIK(m-l) í pósthólf 5186, 125 Reykjavík.

BARÁTTUSJÓÐUR – GÍRÓ 57o7o-2